

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!


## Liðsmenn - til starfa!

Verkalýðsblaðið og EIK(m-l) hvetja lesendur og félaga til að vinna ötult starf fyrir Samfylkingu 1. maí nú síðustu dagana fyrir 1.maí hafið samband við stjórn Samfylkingar í síma 23076 (Sumarliði) eða 76095 (Anna). Mikið starf bíður við áróður og allskyns undirbúning fyrir 1. maí. 1. maí er baráttudagur - látum það sjást! Verkalýðsblaðið, EIK(m-l).


Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

7. tbl. 4. árg. 18. - 30. apríl 1978 100 kr




## Kommúnistaávarpið 130 ára

Sjá opnu



## Talað við Ara T. Guðmundsson formann EIK (m-l)

Sjá opnu

## Leigjendasamtök: Kosningabeita eða baráttuhreyfing

Sjá bls. 3

### Viðtal við stjórnarmenn Samfylkingar 1.maí

# „Þurfum fleira fólk og öflugri áróður"

Verkalýðsblaðið hitti að máli þrjá stjórnarmenn úr Samfylkingu 1. maí til að inna þá eftir reynslu þeirra af starfinu undanfarið o.fl. Þeir eru Lísbet Grímsdóttir, skrifstofumaður, Einar Gunnarsson, formaður Félags járniðnaðarnema í Reykjavík og Baldur Guðbjartsson, bifvélavirkjanemi. Fyrst voru þau spurð um ástæðu þess að þau völdu að starfa með Samfylkingu 1.maí í ár:

SJÁ OPNU



Myndin: Stjórnarmenn Samfylkingar 1.maí. (Mynd: Verkalýðsblaðið).



## MÓTMÆLASTAÐA GEGN SOVÉTRÍKJUNUM

Föstudaginn 7. apríl efndu EIK(m-l) til táknrænnar skyndimótmælastöðu við sovéska sendiráðið í Garðastræti, á tímabilinu 15-19. Mótmælt var afskiptum Sovétríkjanna í Norð-austur Afríku, og árásum þeirra á framsæknar frelsishreyfingar í Eritreu.

Bornar voru uppi kröfurnar:

- Sovétríkin og Kúba burt úr Norð-austur Afríku!
- Til baráttu gegn báðum risaveldunum - Ísland úr NATO - herinn burt!

Aðgerðin var fámenn eins og til var ætlast, og þótti takast vel.

**Söfnum milljón fyrir 1.mai giró 12200-9** sjá bls.2

VERKALÝÐS BLAÐIÐ
SAMEINIST!



# Útflutningsbannið

Í síðasta blaði var sagt að farsælust baráttuleið verkalýðs væri fólgin í fyrirvaralausum skæruverkföllum í þeim greinum sem næmastar eru fyrir stöðvunum, svo sem samgöngum, loðnuvinnslu, olíuafgreiðslu o. fl. Einnig að forsenda sigursællar kjarabaráttu væri sú, að verkafólk sjálft í stéttarfélögum og sérsamböndum skipulegði aðgerðir sínar og hafnaði forræði ASÍ-forystunnar, hvort sem hún heitir "10 mannanefnd", forysta Verkamannasambandsins eða annað. Útflutningsbannið sem Verkamannasambandið er nú skrifað fyrir uppfyllir engan veginn framangreind skilyrði. Þessi aðgerð, eins og nær allar aðgerðir í kjarabaráttu síðustu ára, eru skipulagðar af fámennum klíkum forystumanna verkalýðshreyfingarinnar, algerlega án samráðs við verkalýðsfélög úti um land og meira að segja kom í ljós að ekki var einu sinni samráð við alla stjórnarmenn Verkamannasambandsins við boðun aðgerða. Þá eru aðgerðir boðaðar með löngum fyrirvara og því hafa auðherrar haft góðan tíma til að undirbúa sig fyrir verkfallið. Slík vinnubrögð ASÍ-foringjanna koma ekki á óvart. Þau eru rökrétt afleiðing þjóðfélagslegrar stöðu þeirra, sem eru allt önnur en verkalýðsins. ASÍ-forystan lifir og nærist á hluta þess gróða sem borgarastéttin hirðir af verkalýðnum og hefur hagsmuni af því að gróðinn sé sem mestur og kaupið þar með sem minnst.

Með framangreint í huga, og það sem við höfum áður sagt, segjum við nú:

1. Verkafólk verði virkt í útflutningsbanninu, noti tækifærið til að ræða stöðuna og umfram allt taki stjórn aðgerða í eigin hendur. Eigin verkfallsnefnd stýri framhaldinu.
2. Þess verði krafist að settar verði fram kröfur um 150 þús. kr. í lágmarkslaun, en það er hliðstæður kaupmáttur, miðað við óbreyttar aðstæður nú, og var eftir samningana vorið 1974.
3. Verkafólk almennt beiti sér fyrir aðgerðum á eigin vinnustað og minnist þess að kjarabarátta sem skipulögð er af ASÍ-forystunni getur aldrei og mun aldrei bera árangur.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l)
11.4.1978



# Fansjen: Góð sýning -en gallað leikverk

Ritstjórn ákvað að birta eftirfarandi grein, þrátt fyrir að sýningum á umtöluðu leikriti sé líklega lokið þegar blaðið kemur út. Ástæða þess að greinin birtist ekki fyrr var einfaldlega plássleysi - sem bendir á nauðsyn þess að við herðum baráttuna fyrir vikublaði!

"Nýlunda er að sjá á fjölunum á Íslandi leikrit sem fjallar um kínversku byltunguna, hvað þá að grunntónninn í því sé vinsamlegur byltingunni og reynt sé að bregða upp nokkrum svipmyndum úr baráttu alþýðunnar í Kína við að byggja nýtt þjóðskipulag, sósíalismann. Leikritið "Fansjen" er byggt á bók eftir Kínavininn William Hinton, en í leikgerðinni hefur pólitískt inntak verksins á köflum verið sett í annað sæti á eftir forminu, en nánar verður getirð um þetta hér á eftir.

Jákvætt er að ísl. leikhópur (Nemendaleikhúsið) skuli taka til uppfærslu verk sem þetta og leikurinn og vinnslan á verkinu var vönduð og sýningin í heild eftirminnileg. Áhorfendur kynntust þarna ákveðnum þáttum í starfi kommúnista: staðföstum vilja til að þjóna alþýðufjöldanum og leiða hann til samfélagsvalda, beitingu lýðræðislegra stjórnarhátta, sem aðeins eru framkvæmanlegir í sósíalismanum, þar sem kommúnistar og alþýðan meta starf sitt og annarra stöðugt í því skyni að bæta starfsstílinn og ná enn betri árangri. Þarna sáu menn hvernig gagnrýni var beitt sem tæki til að treysta samtakamátt fjöldans en ekki sem einhliða niðurrifstæki, eins og við verðum oft vitni að.

David Hare, höfundur leikritsins, skrifar í formála þess, að leikritið "snúist mjög um pólitíska forystu og samband leiðtoga við þá, sem stjórnað er í hvaða samfélagi sem vera skal". Þessi skilningur hans á efni bókar Hintons er alrangur, enda er útilokað að bera á einhvern hátt saman tengsl leiðtoga og fjölda í sósíalismanum og auðvaldsríki. Þessi skilningur Hares, gengur aftur í leikritinu. Þar er sneitt hjá því að draga fram hið skýra stéttareðli kommúnistaflokksins og aldrei er minnst á það einu orði að hann starfi samkvæmt fræðikenningu marx-lenínismans/kenninga Maós Tsetungs, og Mao og verk hans raunar aldrei nefnd í öllu leikritinu! Kommúnistaflokkurinn er sýndur í leikritinu sem "utanaðkomandi" afl, sem skýtur upp og tekur að leiða uppskiptingu jarðnæðis o.fl. í þorpinu og blanda sér í baráttu fólksins, gera mistök smá og stór, beita sjálfsgagnrýni og gagnrýni og þróa byltinguna. Mjög mikið er gert úr móthverfum á milli kommúnistanna annars vegar og alþýðunnar hins vegar sem beinni afleiðingu af því að Flokkurinn kemur "utan frá". Þá ber að varast að taka leikritið eða bók Hintons sem alhæfða mynd af byltingarbaráttunni út um allt Kína. Frásögn Hintons er bundin við reynslu af einu litlu þorpi í stóru landi.

En þrátt fyrir gallað verk, þá var í höfuðatriðum gott að það skyldi tekið til sýningar hér og megi það verða til þess að sífellt fleiri sjái ástæðu til þess að kynna sér hina sósíalísku baráttu í Kína og þær forsendur sem verkalýður og alþýða þarf til að framkvæma slíkar þjóðfélagsbreytingar.

Eysteinn.

# Frá ritstjórn

Mikið efni liggur nú hjá okkur og bíður birtingar. Sumt hefur legið nokkuð lengi. Þegar er ljóst að megnið af því efni sem bíður kemst ekki með, til þess eru 8 síður hálfsmánaðarlega of lítið pláss.

Í fyrsta lagi vill ritstjórn skora á fréttaritara og aðra sem senda blaðinu efni, að skrifa ekki of langar greinar, en þó þannig að komi til skila málavöxtum skorinort og hnitmiðað. Í öðru lagi viljum við skora á alla að leggjast á eitt um að búa til þann grundvöll sem stærra Verkalýðsblað verður að byggja á, þ.e. fjölga áskrifendum verulega og herða útbreiðslustarfið. Upplag Verkalýðsblaðsins hefur farið hraðvaxandi síðustu mánuðina, en betur skal gert áður en traustur grundvöllur fyrir tíðari útgáfu er til orðinn. Í þriðja lagi sendir Verkalýðsblaðið öllum sem taka virkan þátt í uppbyggingarherferðinni baráttukveðjur og hvetur til enn umfangsmeira starfs.

Í næsta blaði munum við segja frá opnun ritstjórnarskrifstofu Verkalýðsblaðsins Reykjavík, en þar mun einnig öll dreifing blaðsins hafa aðsetur.

Herðum róðurinn. Næsta stóra takmark er vikublað og þá er slagorðið:
Málgagn vinnandi verkalýðsherja!
Verkalýðsblaðið viku hverja!

Ritstjórn.

# Leiðréttingar

Slæm mistök urðu í vinnslu síðasta blaðs. Annars vegar féll niður undirskrift á greininni " Samfylking og starf kommúnista". Þar átti að standa: Framkvæmdarnefnd miðstjórnar EIK(m-l).

Einnig var sagt að fundur "KFÍ/ml" um stofnun Baráttueiningar 1.maí hafi verið haldinn 19.febrúar, en átti auðvitað að vera 19.mars .

Við biðjumst velvirðingar á mistökunum.

Ritnefnd.

ÁSKRIFTA SÖFNUN

200

150

128




PRENTVÉLAR SÖFNUN



MILLJÓN FYRIR 1. MAÍ

590,000

Nú fer að líða að lokum þessarar söfnunar til prentsmiðju Verkalýðsblaðsins og prentsmiðjan fer senn að taka til starfa. Með sameiginlegu átaki velunnara Verkalýðsblaðsins hefur tekist að stíga skref fram á við í því að efla og styrkja útkomu Verkalýðsblaðsins og stuðla þannig að útbreiðslu marx-lenínisma á Íslandi. En takmarkið var ein milljón - enn vantar 410 þúsund. Eflum söfnunina. Eflum Verkalýðs blaðið.

# 200 áskrifendur fyrir 1.maí

# Kveðjur til EIK (m-l)

Í tilefni III landsþings EIK (m-l) hafa samtökunum borist góðar kveðjur frá Byltingarsinnuðu kommúnistasamtökunum í Bretlandi (RCLB) og Kommúnistaflokki Þýskalands (KPD).
Þar er EIK(m-l) óskað til hamingju með þingið og þá ákvörðun þess að stofna kommúnískan flokk á Íslandi fyrir árslok 1979. Kveðjurnar verða birtar í heild í Rauðliðanum.



Áskriftasöfnun

Súlan hefur þokast jafnt og þétt upp á við, en það er greinilegt, að hún verður að taka sprett núna síðasta tímabilið fyrir 1. maí. Okkur vantar ennþá 72 áskrifendur. Stuðningsmenn og velunnarar Verkalýðsblaðsins, söfnum þessum 72 fyrir 1. maí. Bjóðum ávallt áskrift þegar við seljum blaðið. Áskrifendur eru sú undirstaða sem við byggjum Verkalýðsblaðið á.
- Herðum söfnun áskrifenda!



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Leigjendasamtök:

# Kosningabeita eða baráttuhreyfing

Í Verkalýðsblaðinu 3.tbl. 1975, er sett fram sú afstaða EIK(m-l) að berjast verði fyrir hagsmunum leigjenda og stofna samfylkingu þeirra á grundvelli vinnandi fólks. Þar segir: "Það er baráttumál vinnandi fólks og flestra leigutaka að húsaleiga sé sanngjörn og virkt eftirlit haft með leigumálum. Eina raunhæfa skrefið í þá átt er stofnun leigjendasamtaka - alhliða hagsmunasamtaka leigjenda. Helsta baráttumálið er samþykkt samræmds húsaleigutaxta..."(bls. 3)

Síðan þetta var ritað hafa EIK(m-l) ekki lagt málinu lið. Stafar það ekki af breyttri afstöðu samtakanna né einangrunarstefnu. Samtökin hafa einfaldlega ekki getað annað slíku starfi vegna annarra og mikilvægari verkefna. Er svo um fleiri baráttumál. Nú hafa ýmsir einstaklingar hafið undirbúning til stofnunar leigjendasamtaka. Hugmyndin er sú að stofna til samstarfs verkalýðsfélaga og einstaklinga. Meðal undirbúningsfólks eru félagar pólitískra samtaka og flokka sem sjálf kenna sig við hagsmuni verkalýðsins og voru boðaðir sem "óopinberir fulltrúar" til þess að tryggja "breiða samstöðu". Að auki standa verkalýðsfrömuðir á borð við Aðalheiði Bjarnfreðsdóttur úr Samtökum frjálslyndra, Guðmundur Þ. Jónsson úr Alþýðubandalagi og Þórunn Valdimarsdóttir úr Alþýðuflokki að undirbúningnum til að sanntryggja "þátttöku verkalýðshreyfingarinnar".

EIK(m-l) fagna allri skipulagningu á baráttugrunni meðal leigjenda og munu styðja baráttu þeirra eftir getu hverju sinni.

EIK(m-l) miða ekki afstöðu sína til verðandi leigjandasamtaka fyrst og fremst eftir stofnendum þeirra, heldur stefnuskrá og starfsstefnu. Með lokamat á samtökunum verður því að bíða þar til eftir stofnun þeirra.

Eftirtalin atriði eru þó verðandi samtökum ekki til framdráttar -, að óbreyttu:

KOSNINGABRÖLT

1. Meðal forystumanna undirbúningsstarfsins eru pólitískir hentistefnumenn t.d. úr Fylkingunni, "KFÍ/ML" - samtaka sem berjast í bökkum og hafa hvorki fjöldastefnu né verkalýðsafstöðu í flestum baráttumálum. Starf þeirra er meira auglýsingastarfsemi en baráttustarf.

2. Höfuðtengslin við "verkalýðshreyfinguna" eru fremur byggð á framámönnum stéttasamvinnunnar í verkalýðshreyfingunni en almennu verkafólki. Þau tengsl duga ekki til baráttu fremur en framámennirnir sjálfir - í leigjendabaráttunni munu þeir skemma fyrir á sama hátt og í kjarabaráttu verkalýðsins.

3. Hættan á kosningabrellum og oftrú á þingræðisbaráttu í stað fjöldabaráttu utan þings og stofnana er fyrir hendi. Af málflutningi framboðsaðila til þings í undirbúningsstarfinu (t.d. Aðalheiðar) má draga þá ályktun að hér sé um atkvæðaveiðar að ræða.

4. Reynt er að skipta leigjendum í "hægri" og "vinstri" menn. Beiðst er stuðnings frá ýmsum "vinstri" samtökum í stað þess að vinna þvert á pólitískar markalínur og samtök. Þetta er hættuleg klofningsstefna ef hún nær að lita starf samtakanna eftir stofnun.

HELSTU KRÖFUR

EIK(m-l) hvetja baráttusinna til þess að gagnrýna þessi atriði í starfi undirbúningsfólksins og berjast fyrir raunverulegri samfylkingu leigjenda með nýju samtökunum. Leigjendasamtök geta vissulega orðið baráttusamtök ef réttar kröfur og fjöldastefna ráða þar ferðum, þar sem grundvöllur fyrir þeim er verulegur. Að öðrum kosti leggjast þau út af eins og margs konar samtök sem reynt hefur verið að halda uppi.

Meðal krafna leigjenda eru þessar nauðsynlegar:
- Krafa um leigulöggjöf sem ætlað er að koma sem mest í veg fyrir sífelldar uppsagnir húsnæðis og verðhækkanir leigu.
- Skattalöggjöfinni verði breytt, leigugjöld verði frádráttarbær til skatts og komið verði í veg fyrir að húseigendur geti svikið húsaleigu undan skatti.
- Krafa um ódýrt leiguhúsnæði á vegum bæjar- og sveitafélaga og aukna aðstoð trygginga.
- Krafa um stofnun embættis í bæjar- og sveitarfélögum sem sinni eftirliti með leigumálum og mati á leiguhúsnæði.
- Krafa um varðveislu íbúðarhúsnæðis í gömlum bæjarhlutum Reykjavíkur og bæjum eða þorpum landsins.

# Frjáls álagning-aukinn gróði

Forkólfar auðstéttarinnar vinna nú að því öllum ráðum að breyta lögum um verslun og viðskipti á þann veg að gera álagningu frjálsa, þ.e. að auðherrarnir geti lagt það sem þeir sjálfir vilja á vöruna. Lítum aðeins nánar á hvað þetta merkir.

LÆKKUN VÖRUVERÐS ?

Auðseggir sjálfir halda því fram að frjáls álagning muni valda lækkun vöruverðs. Þetta er mesta blekking. Tilgangur auðvaldsins með því að gera álagningu frjálsa er auðvitað sá að geta hækkað vöruna meira en í dag, fengið aukinn gróða. En þetta gerist þó ekki í einu stökki. Ekkert er líklegra en að við fáum hljómþítt millispil. Til að geta hækkað vöruna í verði umfram núverandi álagningu verða auðherrarnir að ná einokun, brjóta af sér samkeppnina. Eitt alþekktasta ráð stærstu auðherra til að eyða samkeppninni er að lækka vöruverð tímabundið. Með því móti falla þeir minnstu út úr dansinum, og þeir stærstu sitja eftir með einokun á versluninni, og geta nú hækkað vöruna að vild. Og að sjálfsögðu munu þeir gera það.

HVERS VEGNA EKKI FYRR ?

En hvað veldur því að einokunarauðvaldið hefur ekki beitt þessari aðferð - tímabundinni lækkun vöruverðs fyrr ? Því er til að svara að auðvaldið hefur beitt þessari aðferð í ríkum mæli, enda er hægt að beita henni óháð því sem nefnist "frjáls álagning". Á undanförnum árum hefur samkeppnin keyrt ýmsa minni verslunarauðherra á hausinn. Verðlagslöggjöfin er að sjálfsögðu sniðin fyrir þá stærstu eins og hún er í dag. En þeir stærstu hafa stækkað og fjármagnið safnast á æ færri hendur. Einokunin hefur stóraukist. Og nú er svo komið að sú verðlagslöggjöf sem sniðin var fyrir einokunarauðvaldið er orðin því hindrun í vegi enn meiri einokunar. Þess vegna kemur þessi tillaga fram nú. Það vantar meira olnbogarými fyrir einokunarauðvaldið. Útþenslulögmál auðmagnsins heimtar þetta olnbogarými. Kreppa auðvaldsins þrýstir æ harðar á að þetta olnbogarými verði veitt.

Það er mikilvægt að íslensk alþýða geri sér grein fyrir eðli tillagna sem þessarar. Þótt kosningaslepja auðvaldsins boði hátíðlega og í helgirómi að þetta merki lækkun vöruverðs, er það ekkert annað en fölskulegur útúrsnúningur. Afleiðingar tillagna sem þessarar verða engar aðrar en aukin kúgun, aukið arðrán erfiðari lífsafkoma fyrir alþýðuheimilin í landinu.

## Félagsráðgjafar:

# Stuðningur við PAC!

Á aðalfundi Stéttarfélags félagsráðgjafa, sem nýlega var haldinn, var samþykkt svohljóðandi tillaga um stuðning við baráttu Pan Africanist Congress- PAC - í Azaníu (Suður - Afríku):(Sjá meðfylgjandi bréf). Á fundinum söfnuðust rúmlega 3.500 kr. í söfnun EIK(m-l) til PAC! Þetta er fyrsta stuðningssamþykkt stéttarfélags á Íslandi við PAC, en örugglega ekki sú síðasta! Við hvetjum vini PAC í fleiri félögum til að bera upp stuðningstillögu við PAC og leita eftir fjárstuðningi verkafólks og allra baráttusinna.

Þá mótmælti aðalfundurinn gerræðislegum ákvörðunum ríkisvaldsins og sveitarfélaga, að draga frá kaupi þeirra sem þátt tóku í verkfalli 1. og 2. mars, einnig var mótmælt kjararánsfrumvarpi ríkisstjórnarinnar og skerðingum vísitölubóta á tryggingabætur.

"Stéttarfélag ísl. félagsráðgjafa vill lýsa yfir fullum stuðningi við þá baráttu sem PAC nú heyr í Azaníu (S-Afríku). Aðeins með því að berjast gegn stjórn Vorsters og tryggja að pólitísk völd og atvinnutæki verði í höndum þjóðarinnar er hægt að treysta full lýðréttindi fyrir öll þjóðarbrot í Azaníu. Baráttan sem nú fer fram í Azaníu er mikilvægur liður í frelsun þjóða í þriðjaheiminum undan kúgun og arðráni og fyrir sjálfstæði sínu".

Eins og mælikvarði söfnunarinnar ber með sér, er PAC-söfnunin komin í höfn og mun meira en það. Mikið hefur safnast undanfarna daga, t.d. söfnuðu tveir menn á þrettánda þúsund í Austurstræti á stuttum tíma einn daginn!

Setjum markið því 150 þús. fyrir 1.maí! - Lifi vinátta EIK(m-l) og PAC! Lifi vinátta alþýðu Íslands og Azaníu! Lifi hetjuleg barátta PAC gegn fasískri ógnarstjórn hvíta minnihlutans í Suður-Afríku!

**NÝJUSTU FRÉTTIR:**

**Rétt áður en blaðið fór í prentun barst okkur sú frétt að Fylkingin og "KFÍ/ML" hefðu gengið í eina sæng og sameinast um aðgerðir á 1.maí. Ljóst er af fréttinni að Fylkingin hefur haldið reisn sinni og "KFÍ/ML" fallist á að sýna enga tilburði til baráttu gegn báðum risaveldunum - enda erfitt um vik þar sem Fylkingin er í raun yfirlýst stuðningsdeild Sovétfasistanna hérlendis.**

# Gefið í PAC söfnunina!

## 100 þús handa PAC




## Söfnun BSRB:

# Refsifrádrátturinn viðurkenndur í reynd

Vegna aðgerðanna 1.-2. mars s.l. ákvað ríkisvaldið að draga 16% af launum þeirra starfsmanna sinna sem ekki mættu til vinnu þessa tvo daga. Samsvarar það því, að 8 tíma yfirvinnukaup var dregið frá fyrir hvorn dag. Þessi frádráttur byggir á túlkun fjármálaráðuneytisins á lögum um réttindi og skyldur opinberra starfsmanna og kemur í kjölfar hótana sama ráðuneytis fyrir aðgerðirnar

Ljóst er að þessar refsiaðgerðir eiga sér hvorki fordæmi né stoð í lögum. Hefði því mátt búast við að forystumenn BSRB og BHM reyndu að mótmæla þeim og skipuleggja andóf til að fá þeim hrundið. Í stað þess hefur forystan í BSRB nú ákveðið að fara þá leið að viðurkenna refsifrádráttinn a.m.k. í verki og láta verkfallssjóð BSRB um að borga mismuninn. Hefur hún í því skyni hafið söfnun í verkfallssjóð og hyggst greiða úr honum bætur 5 þúsund krónur fyrir hvorn verkfallsdag til þeirra sem um það sækja. Þessi viðurkenning forystunnar á aðgerðum ríkisvaldsins er mjög hæpin þar sem hún gerir ríkisvaldinu auðveldar fyrir að "vinna hefð á" ólöglegar refsiaðferðir sínar. Ljóst er að verkföll opinberra starfsmanna munu a.m.k. á næstunni teljast til "óheimilla fjarvista starfsmanns" og er þá sterkt vopn fyrir ríkið að geta beitt slíkum hótunum til að brjóta niður þær aðgerðir.

Söfnunin í verkfallssjóð BSRB beinir hins vegar huganum að því hversu veikur sjóðurinn er, en í honum munu vera innan við 10 milljónir. Til að reyna að gera sér grein fyrir hve lengi slíkur sjóður myndi duga í allsherjarverkfalli opinberra starfsmanna má líta á það að það þarf 50 milljónir til að greiða 10 þúsund ríkisstarfsmönnum 5000 krónu laun á dag. Sá sjóður sem BSRB ræður yfir núna myndi því hrökkva skammt, til að greiða bætur til verkfallsmanna í allsherjarverkfalli. Þessi staðreynd mælir mjög gegn því, að opinberir starfsmenn fari út í langvinn heildarverkföll, til að ná fram kröfum sínum. Þess í stað eru skipulegar og fyrirvaralausar aðgerðir einstakra starfshópa t.d. stöðvun á mikilvægum hlekkjum s.s. flugi, tollgæslu o.fl. mun vænlegri baráttuaðferð.

Styrking verkfallssjóðs til styrktar slíkum aðgerðum er tvímælalaust framsækið skref. Félagar BSRB þurfa því að beita sér fyrir því að verkfallsstjóðurinn verði styrktur og að fé verði veitt úr honum ef til aðgerða einstakra starfshópa eðafélaga kemur.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ EIK (m-l) OG OKTÓBER FORLAGIÐ

EIK(m-l) Akureyri: Hafnarstræti 79. Opið: þriðjudaga kl. 5-7 og föstudaga kl. 5-7

EIK(m-l) Reykjavík: Óðinsgötu 30. Opið: alla virka daga kl. 5-7, laugardaga kl. 1-3. sími 29212 — Pósthólf 5186.

EIK(m-l) Kaupmannahöfn: Sigrún Ágústsdóttir, Öresundskollegiet, J-102, Dalslandsgade 8, 2300 Köbenhavn S.

EIK(m-l) Osló: Steinunn Hjartardóttir, Schultsgate 7, Osló 3. Sími 694450, kl.5-8.30.

EIK(m-l) Uppsalir, Svíþjóð: Haraldur Arngrímsson, Flogstavägen 93 F, Uppsala.

.......

EIK(m-l) hefur gíróreikning nr. 12 200-9.

Á öllum þessum stöðum fæst einnig Verkalýðsblaðið og útgáfuefni Október-forlagsins og EIK(ml).



# Kommúnistaávarpið 130 ára

" Kommúnistar hirða ekki um að leyna skoðunum sínum og ætl unum. Þeir lýsa því yfir afdráttarlaust, að takmarki þeir þeirra verði því aðeins náð, að allri þjóðfélagsskipan verð verði steypt af stóli með valdi. Lofum hinum drottnandi stéttum að skjálfa fyrir kommúnistabyltingu. Þar hafa öreigarnir engu að týna nema hlekkjunum. Þeir eiga heilan heim að vinna. Öreigar allra landa sam sameinist! "

Þetta eru víðþekkt niðurlagsorð Kommúnistaávarpsins, en í febrúar s.l. voru liðin 130 ár frá birtingu þess og sá viðburður markar fæðingu marxismans, fræðikenningar verkalýðsins fyrir þjóðfélagsvöldum og sósíalisma. Enn þann dag í dag er Kommúnistaávarpið einn af hornsteinum fræðikenningar marx-lenínismans og grundvallargreining þess á auðvaldsþjóðfélaginu og óhjákvæmilegum endalokum þess í sósíalískri byltingu verkalýðs og alþýðu eru í fullu gildi. Við hvetjum lesendur til að verða sér úti um og nema þetta snilldarverk Marx og Engels.

Í tilefni 13o ára afmælis Kommúnistaávarpsins hélt flokkur marx-lenínista í Belgíu ráðstefnu sem sóttu yfir 400 fulltrúar marx-lenínskra kommúnistaflokka í Frakklandi, Luxemburg, Bretlandi, Hollandi Vestur-Þýskalandi og Belgíu. Sameiginlegt álit ræðumanna á ráðstefnunni var það, að marx-lenínisminn / kenningar Maós Tsetungs, sem þróaður hefur verið af Lenín, Stalín og Maó, sé óumdeilanlega byggður á grundvallarkenningu Kommúnistaávarpsins - og að kenning Maós Tsetungs um "þrjá heima" sé tengd Kommúnistaávarpinu sterkum böndum.

## Október

Frá Október-búðinni Óðinsgötu 30

Nú höfum við mikið af góðum hljómplötum frá Svíþjóð. Höfum ávallt úrval bóka á á Norðurlandamálum og úrval enskra bóka fer vaxandi. Á íslensku höfum við að sjálfsögðu allt útgáfuefni Októberforlagsins og að auki talsvert af góðum bókum frá öðrum forlögum, þ.á.m. verk frumkvöðla sósíalismans.

Blöð og tímarit nokkurra erlendra kommúnistaflokka og alþýðuhreyfinga liggja frammi til lestrar og sum einnig til sölu.

Lítið endilega við einhvern tíma milli kl.5 og 7 á virkum degi eða milli kl. 1 og 3 á laugardegi.

## Skák

# Göfug íþrótt í þjónustu auðsins

Með tilliti til þess mikla áhuga á skák sem nú ríkir hérlendis, m.a. vegna nýafstaðins Reykjavíkurmóts, í tilefni hugmynda um Ísland sem mótsstað fyrir einvígi Karpovs og Kortsnojs og vegna framboðs Friðriks Ólafssonar í embætti forseta FIDE, Alþjóðskáksambands - langar mig til að hvetja til umræðna í Vbl. um skák, stöðu hennar og hvernig hún er notuð til alls kyns fjárglæfrastarfsemi.

Ekki fer á milli mála að skák er ágæt íþrótt og holl. Um hana sem slíka er ekkert nema gott að segja. Hún þjálfar upp einbeitni, rökvísi og skýra hugsun. Fyrir kommúnista og aðra framsækna er hún einnig ágætt dæmi úm díalektíska hugsun og aðferð. Okkur gengur oft illa að gera okkur grein fyrir samspili andstæðna og móthverfa í þjóðfélaginu, enda er slíkt samspil oft flókið og torleyst. Sama gildir um skák. Flóknar stöður og leikfléttur verða ekki skildar nema með því að gera sér ljósa og skýra grein fyrir andstæðum og samspili þeirra, bæði í hverrri einstakri stöðu og í þróun hverrar skákar í heild. Þótt skák sé oft á tíðum flókin, er þó ekki hægt að líta á hana sem jafnoka þjóðfélagslífsins hvað það snertir. Fremur væri hægt að kalla hana mjög einfaldaða vasaútgáfu af því sem þjóðfélagið hefur upp á að bjóða.

En skák er íþrótt, og sem slík verður hún sífellt fyrir barðinu á þeim öflum þjóðfélagsins sem vilja græða á henni. Atvinnumennska tíðkast í skák í stórum stíl, dulin ( eins og í Sovétríkjunum ) eða ódulin (eins og hér á Íslandi, sbr. Friðrik Ólafsson). Í kringum öll meiriháttar skákmót safnast herskari fjármálaspekúlanta, sem allir vilja fá sinn skerf af gróðanum. Sem dæmi má nefna minnispeningaog póstkortaútgáfur. Þá kaupa útvarps og sjónvarpsstöðvar sér einkaleyfi á flutningi frétta frá slíkum mótum og græða stórfé á. Hótel og hallir keppast um að auglýsa sjálf sig með því að útvega mótsstaði. Á mótunum sjálfum eru verðlaun öll í peningum. Þannig er skákin gerð að einu stóru peningaspili. Þeir sem standa í forystu skákmála, t.d. stjórnir skáksambanda, beita sér síður en svo gegn þessu. Þau vilja sjálf ná í eitthvað af gróðanum, og með sem öflugastri samvinnu við auðherrana vonast þau til að einhverjir molar hrjóti til sín. Sem og gerist. Skáksamböndin eru því í langflestum tilvikum (t.d. á Íslandi) handbendi ráðandi stéttar auðvaldsins í sínu landi. Allir muna hvernig Guðmundur G. Þórarinsson, fyrrv. Skáksambandsformaður, notaði sér auglýsingamennskuna í kringum einvígi - Spasskís og Fischers á Íslandi til að koma sér áfram innan Framsóknarflokksins. Slík tilvik koma oft fyrir.

Talsvert er deilt um það hvort blanda eigi pólitík í skákina. Þessar deilur sem einkum hafa kristallast í Alþjóðaskáksambandinu, fara aðallega fram milli stærstu tveggja blokkanna þar, A-Evrópu með Sovétríkin í broddi fylkingar annars vegar, og V-Evrópu og Ameríku hins veg vegar. Í ljósi þess að auðstéttin í öllum þessum löndum gín yfir og græðir á skákinni eru þessar deilur fáránlegar. Annað mál er um þær deilur sem upp koma milli 3.heims ríkjanna annars vegar og risaveldablokkanna hins vegar. Þær eru aðeins birtingarmynd þess óréttlætis sem þessum ríkjum er sýnd, bæði á sviði skákíþróttarinnar og í heimsmálunum yfirleytt. Hvaða "hlutleysi" er það t.d. að Alþýðulýðveldinu Kína var ekki hleypt inn í Alþjóðasambandið vegna þess að Formósa var aðili? Hvaða "hlutleysi" er það að halda alþjóðlegt stórt skákmót í fasista- og útþenslurríkinu Ísrael? Nei, það "hlutleysi" sem vesturlensk skáksambönd klifa svo mjög á, er ekkert annað en afskiptaleysi af misnotkun eigin auðstéttar á skákinni og andstaða við réttmætar kröfur 3.heimsins.

Friðrik Ólafsson, stórmeistari, er einn þeirra sem halda uppi áróðri fyrir "hlutleysinu". Hann býður sig nú fram sem forseti Alþjóðaskáksambandsins. Með þessu framboði sínu hefur Friðrik tekið þá ákvörðun að vera pólitískt handbendi íslensks auðvalds í samkeppni þess við aðra og vesturlensks auðvalds í kúgun þess á 3.heiminum. Íslenskur forseti á -að sögnað "styrkja skákina á Íslandi". En hvernig? Munu íslenskir skákmenn tefla betur en áður? (Hafa landsmenn núverandi forseta, Hollendingsins Euwe, teflt betur en aðrið eða betur en áður, síðan Euwe varð forseti?) Eða er það kannski það, að með því að fá íslenskan forseta FIDE mun gróði þeirra íslenskra aðila sem hagnast á skákíþróttinni verða meiri?

Skákunnandi.



# "Þurfum ... og öflug

Lísbet: Í heild get ég sagt að pólitísk stefna Samfylkingar sé mér mjög að skapi og hjá okkur er að finna kröfur sem engir aðrir bera uppi 1. maí, svo sem beinar kjarakröfur og kröfur gegn allri heimsvaldastefnu og báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum Sjálft starfið hjá okkur er einnig frábrugðið því sem gerist annars staðar. Hér hefur einstaklingurinn eitthvað að segja, hér get ég komið á framfæri eigin kröfum.

Baldur: Ég gerði mér ákveðnar hugmyndir um að hægt væri að byggja betra þjóðfélag en það sem við nú þekkjum og fór að líta í kringum mig og kynna mér ýmsar þjóðmálastefnur. Sú stefna sem Samfylking 1. maí byggir á féll að mínum kröfum og því er ég hér. Ég tek líka sérstaklega undir það, að einstaklingurinn er mikils virtur í hreyfingu á borð við Samfylkingu 1. maí. Samfylkingin er byggð upp af einstaklingum sem eru skipulagðir í litlum hópum og þannig reynt að tryggja að allir séu virkir í starfi.

Einar: Ég starfa með Samfylkingu 1. maí vegna þess að á síðasta þingi Iðnemasambands Íslands, sem haldið var í fyrrahaust, varð baráttustefnu verulega ágengt, þvert ofan í vilja ráðamanna INSÍ. Til þess að vera samkvæmur sjálfum mér, ákvað ég að taka þátt í störfum baráttusinna fyrir 1.maí, fremur en að ganga með bra-bra sinnum í ASÍ-forystunni. Sérstaklega finnst mér krafan um 150 þús. kr. lágmarkskaup í grundvelli Samfylkingarinnar höfða til okkar iðnnema og í framhaldi af því krafa um samn-

# „Starf í Samfylkingu

## segir formaður EIK(m-l)

Senn líður að baráttudegi verkalýðsins, 1.maí. Þá eru kosningar til þings og sveitastjórna skammt undan. Í tilefni þessa og samþykktar miðstjórnar EIK(m-l) um samfylkingarstarf sneri Vbl. sér til Ara T.Guðmundssonar, formanns EIK(m-l) og spurði fyrst um nánari útskýringar á svonefndu samfylkingarstarfi og gildi þess.

- Með samfylkingarstarfi eiga kommúnistar við allt skipulagsstarf sem lýtur að beinni fjöldabaráttu. Á það jafnt við um verkalýðsbaráttuna, t.d. í kjaramálum, og hvers kyns hagsmunamál alþýðunnar allrar - svo sem baráttuna gegn báðum risaveldunum eða erlendri stóriðju á Íslandi. Með marx-lenínismann að leiðarljósi og á grundvelli reynslu okkar úr starfinu drögum við saman hugmyndir fjöldans, breytum þeim í kröfur og kjörorð sem miðast við hagsmuni fjöldans og skipuleggjum baráttu fyrir og með fjöldanum. Auðvitað er umræður "fjöldi" teygjanlegt hugtak, þar sem baráttustaða og baráttuvilji alls verkalýðs og alþýðu allrar er misjafn eftir hópum, aðstæðum, tíma o.fl. En segja má að með þessu sé átt við alþýðufólk yfirhöfuð sem stendur utan EIK(m-l). Og sá er munur á samfylkingum og EIK(m-l) að samfylkingar ná langt út fyrir raðir kommúnista og eru bundnar við eitt eða fleiri málefni - gjarnan þvert á "hefðbundin flokkabönd". Annars er skipulagning samfylkinga eitt helsta verkefni kommúnista, þær eru eitt af þremur helstu skipulagsformum byltingarstarfsins. Stofnun kommúnistaflokks er að hluta einmitt undirbúin með samfylkingarstarfinu. Í því nær EIK(m-l) m.a. tengslum við verkafólk.

### MIKILVÆGUSTU VERKEFNIN NÚ

- Hver eru mikilvægustu verkefnin í samfylkingarbaráttunni á næstunni?

- EIK(m-l) styðja Samfylkingu 1.maí. Allir félagar samtakanna í Reykjavík, á Akureyri, víðar á landinu og í borgum erlendis hafa það sem höfuðverkefni í fjöldastarfi að vinna fyrir Samfylkingu 1.maí. Sýna verður fólki, og þá sérstaklega pólitískum andstæðingum okkar í verkalýðshreyfingunni og auðstéttinni, að kommúnísku og baráttusinnuðu hreyfingunni



# Liðsmenn - til starfa!



# Grundvöllur Samfylkingar 1. maí

Á stofnfundi Samfylkingar 1.maí 14. mars var samþykktur pólitískur grundvöllur fyrir starfsemi hennar og baráttu. Höfuðkjörorð og helstu kjörorð önnur sem Samfylking 1.maí starfar samkvæmt eru eftirtalin:

1) EINING Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTU! ENDURREISUM STÉTTARFÉLÖGIN SEM BARÁTTUTÆKI!

Önnur kjörorð : Verjum samningsréttinn - gegn árásum ríkisvaldsins á gerða samninga! Gegn fjöldauppsögnum og lokun fyrirtækja! Burt með samflotin - samningana í hendur félaga og sérsambanda! Samnings - og verkfallsrétt fyrir iðnnema og aðildarfélög BSRB! Fullar og óskertar vísitölubætur á kaup! Lágmarkslaun verði 145 þús. kr. á mán.(talan miðast við 1.febr. '78)! Til baráttu gegn sívaxandi skattpíningu! Gegn kjararáni á elli - og örorkulífeyrisþegum!

2) GEGN ALLRI HEIMSVALDASTEFNU - VERJUM SJÁLFRÆÐI ÍSLANDS!

Önnur kjörorð: Gegn heimsvaldastefnu og stríðsundirbúningi risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna! Gegn landssölustefnu auðvaldsins - burt með erlenda stóriðju! Ísland úr NATO - herinn burt! Styðjum þjóðfrelsishreyfingar 3ja heimsins! Kjörorð með þessu verði: Niður með síonismann - lifi frjáls Palestína! Sovétríkin burt úr Afríkuhorninu - fullan stuðning við þjóðfrelsishreyfingar Eritrea og Sómala! Gegn fasisma og kynþáttakúgun í S-Afríku - styðjum baráttu PAC!

3) KVENNABARÁTTA Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTUNNAR !

Önnur kjörorð: Dagvistarrými fyrir öll börn! Fulla atvinnu kvenna - gegn fjöldauppsögnum! Sjálfsákvörðunarrétt kvenna til fóstureyðinga!

4) JAFNRÉTTI TIL NÁMS!

Önnur kjörorð: Samstaða námsfólk - verkafólk! Gerum hagsmunafélög nema að baráttutækjum! Sama lánsrétt fyrir alla framhaldsskóla! Námslán dugi til framfærslu! Burt með vísitölubundna endurgreiðslu námslána!

5) TIL BARÁTTU FYRIR SÓSÍALÍSKU ÍSLANDI !

# fleira fólk gri áróður "

ings- og verkfallsrétt fyrir iðnnema. Ég get skotið því að í þessu sambandi, að kaup mitt nú samkvæmt samningum er kr. 75.22o á mánuði!

- Hvernig finnst ykkur svo áróðursstarfið hafa gengið?

VANTAR ÖFLUGRI ÁRÓÐUR

Öll: Margir eru hlynntir því sem við höfum að segja, en einnig heyrum við margs konar mótbárur, t.d. að þetta sé "klofningsstarfsemi", "ofstæki", stefna til að"drepa niður verk verkalýðshreyfinguna", "byltingarstarfsemi" o.s. frv. Þá segja sumir að við séum og ósveigjanleg að slá af kröfum til að sameinast öðrum aðilum 1. maí - og eiga þá við að við föllum frá einmitt þeim kröfum sem eiga stóran þátt í að gera Samfylkingu 1. maí að alhliða baráttuhreyfingu! Okkur vantar að geta haldið uppi mun meiri og samfelldari áróðri til að fræða fólk betur um starf okkar og stefnu. En einnig verðum við að taka ríkt tillit til þeirrar vinnuþrælkunar sem við gengst hér hjá verkafólki og gera kröfur til þess í samræmi við það.

- Og þá er bara lokasppretturinn eftir í ár?

NOTA TÍMANN VEL!

Einar: Já, ég vil nota tækifærið og beina því sérstaklega til járniðnaðarnema og iðnnema allra að taka til umræðu stefn stefnu Samfylkingar 1. maí og fylkja sér til starfs á vegum hennar. Notum tímann vel sem við eigum eftir til að koma stefnu okkar út!

Lísbet: Ég vil sérstaklega hvetja félaga mína í BSRB til að koma í starf hjá okkur. Margar kröfur okkar, svo sem kröfur um vörn samningsréttarins gegn árásum ríkisvaldsins á gerða samninga eiga fullt erindi til opinberra starfsmanna. Þá vil ég benda á, að við bjóðum alla velkomna til starfa þótt þeir styðji ekki fyrirfram heildarstefnugrundvöll Samfylkingarinnar, heldur vilji styðja einstaka kjörorð innan hans.

Baldur: Fólk á að fylkja sé sér um baráttustefnuna, einu raunhæfu stefnuna sem miðar að jafnrétti, bættum lífskjörum og réttlátara þjóðfélagi. Samfylking 1. maí er réttur vettvangur til að leggja þessu starfi lið.

# u 1.maí er höfuðverkefnið nú"

vex fiskur um hrygg svo um munar. Þetta kostar vinnu og aftur vinnu. Aðalatriðið er að vera ófeimin við að leggja baráttunni lið, hversu óviss sem menn eru um einstök atriði, hvetja sem stærstan hóp til þátttöku. Hvatning til þátttöku fyrir og sjálfan 1. maí, dreifing áróðurs, merkjasala o.s.frv. - allt heppnast þetta aðeins ef menn reyna í alvöru að gefa sig á tal við vini, vinnufélaga, ættingja og aðra. Flókin og viðamikil verkefni verða einfaldari og minni fyrir hvern og einn ef margir sameinast til átaksins. Í raun þarf að vinna hvern og einn baráttusinna til þátttöku í aðgerðum Samfylkingar 1.maí.

Eftir 1.maí eru svo kosningar efst á baugi. Krafa okkar nú, að fólk skili auðu, er m.a. rétt nú vegna vantraustsins á stjórnmálaflokkana og vegna þess að nauðsyn er á að beina óánægjunni í þá átt að fólk taki fjöldabaráttuna fram yfir þingræðisleikinn. Sjálf kosningaþátttaka EIK(m-l) og áróður fyrir því að fólk skili auðu er tilefni til nokkru þrengri samfylkingar, en Samfylking 1.maí. En um hana gilda annars sömu grundvallaratriði og í starfi fyrir Samfylkingu 1.maí: áræðni og traust fjöldastarf kommúnista og baráttufólks.

Í samfylkingarstarfinu hafa EIK(m-l) gert villur, m.a. í þá átt að virða ekki nægilega sjálfstæði samfylkinga. Í starfinu fyrir 1.maí og síðar verður unnið að því að uppræta þessar villur.

"SAMEININGARTALIÐ"

- Ýmsir ræða um "sundrungu vinstri aflanna 1.maí". Hvað er um það að segja?

- Samfylkingar byggjast bæði á samstöðu og réttri baráttustefnu. Það er ekki hægt að leggja allt upp úr samstöðunni og fella niður meirihluta baráttukrafna til að ná sem "víðtækastri samstöðu". Ekki heldur má gleyma baráttunni fyrir samstöðu og keyra út baráttukröfur án tillits við alþýðufjöldans. Sameiningarbarátta fer þannig fram, að reynt er að finna lágmarksgrundvöll til að byggja á þannig að sem mestur fjöldi fáist til starfa samkvæmt honum, án þess að baráttumarkmiðið gleymist nokkurn tímann. Svokölluð "vinstri öfl" eru afar sundurleit og til dæmis um atriði sem greinir þau að í grundvallaratriðum má nefna, að sum styðja leynt eða ljóst svikula forystu ASÍ, en EIK(m-l) berjast skilyrðislaust gegn ASÍ-forystunni og þeirri meðvituðu stefnu hennar að reyna að leiða baráttu verkalýðsins inn í blindgötur og gagnast þar með auðvaldinu. Þá má einnig nefna afstöðu til baráttunnar gegn báðum risaveldunum. EIK(m-l) munu aldrei skapa samfylkingu eða samfylkingarstefnu sem byggist á afneitun á Sovétríkjunum sem heimsvaldasinnuðu auðvaldsríki, sem alþýðu heimsins stendur ógn af.

Við höfum heyrt raddir/óskhyggju um að von sé nú að sameina Fylkinguna, "KFÍ/ML" og EIK(m-l) í einum aðgerðum 1.maí - og þá væntanlega m.a. með því að þegja um Sovétríkin og svikaforystu ASÍ. Þessar hugmyndir eru reistar á misskilningi eða eru vísvitandi tilraunir til að fela muninn á réttri stefnu og rangri. Einlægur vilji fjölda fólks til einingar 1.maí er mikilsverður, en sú eining getur aldrei orðið til gagns án þess að röng stefna sé greind og henni hafnað. Samfylking 1. maí er öllum opin - félagar "KFÍ/ML" og aðrir geta auðveldlega gegnið inn í starf hennar séu þeir á annað borð sammála kröfunum. En sú virðist ekki staðreyndin hvað "KFÍ"-hópinn varðar. Hann hefur valið sér þann kost að starfa skv. rangri stefnu, segja lítið um forystu ASÍ - og ekkert um Sovétríkin.

# 1.MAI



# Námsmenn og 1. maí

Miðvikudaginn 5.apríl s.l. var haldinn stofnfundur Samfylkingar 1.maí 1978 í Háskóla Íslands. Fyrir fundinn höfðu nokkrir stuðningsmenn Samfylkingar dreift dreifiriti í Háskólanum. Í því segir m.a.:

"Hvers vegna eiga námsmenn að taka þátt í starfi fyrir 1. maí ?

Það þarf ekki að fjölyrða um hvernig kjör námsmanna, verkafólks og allrar alþýðu hafa farið hríðversnandi undanfarin ár. Það er ríkisvald auðvaldsins sem framkvæmt hefur þessar kjaraskerðingar í þágu atvinnurekenda og annarra auðmanna. Námsmenn og verkafólk eiga í baráttu við sameiginlegan óvin, og hljóta því að standa saman.

Ein af höfuðorsökum þess að ríkisvaldinu hefur gengið svo vel að framkvæma kjaraskerðingar er að uppkeypt verkalýðsforysta hefur komið í veg fyrir fjöldabaráttu, en beint allri baráttu inn á brautir makks og þingræðisbaráttu. Forysta námsmanna hefur líka haft ofurtrú á vinsamlegu ríkisvaldi, og oft kosið leið makks og þingsalahangs í stað baráttu. Baráttuna gegn ríkisvaldinu og auðstéttinni verður að heyja á grundvelli fjöldabaráttu. Samfylking 1.maí er liður í þeirri baráttu...

GERUM HAGSMUNAFÉLÖG NEMA AÐ BARÁTTUTÆKJUM!

Hagsmunabarátta námsmanna hefur liðið fyrir klofningsstarf forystu vinstri - og hægrimanna. Hvorug fylkingin hefur haft forgöngu um að gera hagsmunafélögin að baráttutækjum, þrátt fyrir stór orð um nauðsyn þess. Sigrar í hagsmunabaráttunni nást ekki nema í gegnum fjöldabaráttu á grundvelli hagsmunafélaganna. Vekja þarf upp umræður og starf. Kröfur Samfylkingar 1.maí sem varða baráttu námsmanna eru m.a.:
Námslán nægi til framfærslu!
Gegn vísitölubundnum endurgreiðslum námslána!
Sama lánsrétt fyrir alla framhaldsskóla!

Námsmenn í HÍ : Við megum ekki missa sjónar á því að verkafólk og námsfólk á samleið í baráttunni, og að við verðum að hafa stuðning verkafólks í baráttu okkar."

STARFIÐ FRAMUNDAN Í HÍ

Háskólahópur Samfylkingar ákvað að halda þrjá fundi í háskólanum fyrir 1.maí. Fyrsti fundurinn var á miðv.d. 12.apr. s.l. og var þar fjallað um kröfur námsmanna og kröfur stundarkennara við HÍ. Mánud. 24. apríl nk. verða síðan haldnir tveir fundir, annar kl.12 , hinn kl.17.15. Þeir munu báðir fjalla um stefnugrundvöll Samfylkingar í heild og um starfið. Ákveðið hefur verið að gefa út dreifibréf í háskólanum, stunda öfluga sölu á merki Samfylkingar, mála alla borða og spjöld sem snerta námsmannakröfur og framkvæma annað starf sem til fellur, s.s. áróður - og útbreiðslustarf.

GOTT FORDÆMI

Stofnun Háskólahóps Samfylkingar er gott fordæmi fyrir nemendur annarra skóla, sem vilja starfa fyrir 1.maí. Þar sem ekki hafa verið stofnaðir hópar nú þegar verður að drífa í því, svo að hægt verði að framkvæma lágmarks áróðursstarf og ræða kröfur Samfylkingar og sérkröfur einstakra skóla fyrir 1.maí.

Fréttaritari í HÍ.

**Lönd vilja sjálfstæði · þjóðir vilja frelsi · alþýðan vill byltingu**



Byltingarherinn í Kampucheu tryggir sigur alþýðu Kampucheu og tekur virkan þátt í sósíalískri uppbyggingu landsins. Herinn varð til í baráttu alþýðunnar gegn bandarísku heimsvalda-stefnunni, sem leidd var af Kommúnistaflokknum, og ætlar nú að verjast yfirgangi talsmanna Sovétríkjanna í Víetnam.

# Rödd Sovétríkjanna í Indókína

Í Kampucheu er nú óttast nýja atlögu frá Víetnam. Fjölmiðlar í Víetnam hafa að undanförnu hvatt hermenn Kampucheu til að beina vopnum sínum að stjórninni í Pnom Penh. Víetnamskir talsmenn segja, að með þessu geti Kampuchear bundið endi á "kúgunina í Kampucheu" og landamæradeilurnar milli landanna. Það var látið fylgja með, að öruggt væri "að meirihluti hermanna frá Kampucheu óskuðu ekki að hlýðnast skipunum frá yfirboðurum sínum".

Að undanförnu hefur verið fremur tíðindalítið af landamæradeilum Víetnams og Kampucheu. Her Kampucheu hefur háð hetjulega baráttu gegn innrásarherjum Víetnams og og tekist að reka þá að mestu burt af kampucheansku landi. Það er augljóst, að það er Víetnam, sem hefur ráðist á Kampucheu í landamærastríðinu.

Þá verður að benda á það, að landamæradeilurnar eru afleiðing af afskiptum Sovétríkjanna af málum Indókína. Þetta eru deilur milli tveggja þriðjaheimsríkja, og ættu að leysast á friðsamlegan hátt, en Sovétríkin gera allt til að sá sundrungu meðal slíkra landa í viðleitni sinni til að ná fram hagsmunum sínum, þ.e. hagsmunum fasísks heimsvaldasinnaðs ríkis, sem rekur grófa útþenslustefnu hvarvetna í heiminum í dag.

Sovétríkin hafa lengi verið með áætlanir um það að auka áhrif sín í Suð-austur Asíu, og einangra þannig Kína. Þessu til sönnunnar má fyrst benda á Indland, sem var í nánum tengslum við Sovétríkin í stjórnartíð Indiru Gandhi. Þá studdu Sovétríkin innrás Indlands í Austur-Pakistan (Bangla Desh). Sovétríkin studdu aldrei frelsisstríð Kampucheu gegn hinu risaveldinu, Bandaríkjunum, en héldu allan tíman stjórnmálasambandi við bandarísku leppstjórnina þar, Lon Nol-stjórnina. Sovétríkin veittu Víetnömum mikla hjálp í frelsisstríðinu, þó ekki fyrr en í kringum 1964, og notuðu þessa aðstoð til að tengja Víetnam sterkum böndum við sig. Sovétríkin hafa einnig sett mikla þvingun á fleiri lönd í Asíu.

Hvatningin til hermanna Kampucheu um að "beina vopnum sínum að sinni eigin stjórn" er rödd Sovétríkjanna í Indókína. Kremlarkeisararnir ætla að þvinga Vietnama til að leggja undir sig Kampucheu og kúga fólkið, sem þeir fyrrum börðust hetjulega með gegn sameiginlegum óvini - heimsvaldastefnunni - og fyrir frelsun landa sinna.

Víetnömsk alþýða, sem hefur lagt frelsishreyfingum um allan heim ómetanlegt lið, hefur enga hagsmuni af slíkum fyrirætlunum.

# Friðargæslusveitir Sameinuðu þjóðanna: Tryggja hagsmuni Ísraels í S-Líbanon

Enn hafa Ísraelsmenn ekki dregið herlið sitt út úr Suður-Líbanon, þrátt fyrir samþykkt Sameinuðu þjóðanna þess efnis. Nú eru u.þ.b. 4000 hermenn úr friðargæslusveitum SÞ þar, og taka sér stöðu milli Ísraelsmanna og Palestínumanna. Friðargæslusveitirnar eiga að "tryggja frið í S-Líbanon og hindra það að bardagar brjótist út að nýju milli Ísraels og Palestínuaraba". Þær mynda því varnarlínu fyrir hersveitir Ísraels í S-Líbanon. Þetta þýðir, að nú er það túlkun Ísraels á samþykkt SÞ, sem ræður; friðargæslusveitirnar eiga að aðstoða Ísraelsríki við að tryggja landamæri sín gegn Palestínumönnum.

Að koma á heimsvalda-"lausn".

Í dag eru hersveitir SÞ meðfram landamærum svæðanna, sem Ísraelsríki hefur hertekið í Sýrlandi og Egyptalandi. Tilgangur þeirra er að hafa eftirlit með og vera landamæralögregla á svæðunum milli landanna. Með þessu eru SÞ að frysta "lausn" eða vopnahléssamninga, sem voru þvingaðir fram af risaveldunum og öðrum heimsvaldaríkjum, án tillits til réttmætis landamæralínunnar eða vilja fólksins, sem byggir svæðin sem hér um ræðir. Friðargæslusveitirnar eiga því engan rétt á sér í S-Líbanon og gera það eitt að styrkja stöðu Ísraels. Við setjum því fram kröfurnar:

- Friðargæslusveitir SÞ burt frá S-Líbanon!
- Lifi frjáls Palestína!



Kúgun Ísraelsríkis á Palestínuaröbum í heimalandi þeirra Palestínu er gífurleg. Mynd þessi er frá Vesturbakka Jórdanar.



....en kúgun leiðir af sér andstöðu. Palestínska þjóðin hefur risið upp til baráttu gegn síonisma og fyrir endurheimt heimalands síns.

# Meira um aðalfund KÍM

Eftirfarandi bréf barst ritstjórn blaðsins:

"Ykkur ber að þakka fyrir allt það sem þið hafið skrifað um Kína og baráttuna þar í landi, einnig vinsamlegar greinar um Kínversk-ísl. menningarfélagið (KÍM). Undirritaður vill gera athugasemd við frétt í síðasta blaði um aðalfund KÍM. Þar gerðist það m.a. að felld var tillaga um viðbót við lög að KÍM starfaði óháð pólitískum samtökum/félögum á Íslandi, tæki ekki afstöðu í stjórnmálabaráttunni hér, en gæti tekið afstöðu í málum sem vörðuðu samskipti Kína og Íslands og í málum sem beinlínis vörðuðu Kína. Hvernig sem á stendur, var þessi tillaga felld með 16 atkvæðum gegn 14 og athygli vakti að fólk úr "KFÍ-/ML"með sjálfan Kristján Guðlaugsson í broddi fylkingar greiddi atkvæði gegn tillögunni og reið það baggamunginn að hún var felld. Gott væri að krefjast skýringa á þessu athæfi "KFÍ-hópsins" og ég gagnrýni Vbl. fyrir að segja ekki frá þessu!

Lesandi.

Svar ritstjórnar:

Við þökkum lesanda fyrir ábendinguna. Í frétt sem einn blaðamanna Vbl. skrifaði um KÍM-fundinn var sagt frá fyrrgreindu atriði, en það var fellt niður vegna plássleysis- og ljóst er að sú ákvörðun var mjög röng. Við tökum undir kröfu um skýringu á athæfi "KFÍ"-hópsins á aðalfundinum.

Kúbanskar árásir á UNITA í Angóla.

Miklar árásir hafa staðið yfir allt frá mars byrjun á bækistöðvar UNITA-frelsishreyfingarinnar í suð-austur hluta Angóla. Árásirnar eru skipulagðar af kúbönskum herforingjum og sovéskum ráðgjöfum, 5ooo kúbanir, studdir þyrlum hlöðnum napalmsprengjum, og 8 sovéskum Mig-21 orustuþotum, taka nú þátt í árásunum, en aðeins 12oo hermenn frá MPLA-stjórninni í Angóla. Tala fallna og særðra er ekki kunn, en u.þ.b. 7oo manns hafa flúið undan árásum inn í Namibíu.

MPLA var ein af þrem frelsishreyfingum í Angóla sem börðust gegn portúgölsku nýlenduherrunum. Hinar voru UNITA og FNLA. En Sovétríkjunum tókst að sundra hreyfingunum, og með hjálp fleiri þúsunda kúbanskra málaliða, að koma MPLA til valda. Allt frá því hafa FNLA og UNITA barist gegn sovésku og kúbönsku hernámi í Angóla.

Bókin: "ANGÓLA. Sosialimperialismen i Afrika" sem Oktoberforlagið í Noregi gaf út fyrir ári síðan fjallar ítarlega um atburðina í Angóla. Hún er nú fáanleg í Októberbúðinni að Óðinsgötu 3o.

Ísrael byggir tilvist sýna á hryðjuverkum.

Nú eru 3o ár liðin frá fjöldamorðunum í palenstínska þorpinu Deir Yassin. Að morgni 9.apríl 1948 var bærinn tekinn herskildi af síonísku hryðjuverkasveitunum Irgun og Stern. Af 4oo íbúum voru 25o myrtir eftir grimmilegar pyntingar. Þetta var aðeins eitt af fjölmörgum fjöldamorðum sem tvær fyrrgreindar hryðjuverkasveitir síonista framkvæmdu. Tilgangurinn var að hrekja fólkið á flótta; 6o þús. Palestínuarabar flúðu eftir atburðinn í Deir Yassin, í næstu flóttamannabylgju flúðu 35o þús. , m.a. frá Tiberias, Haifa og Jaffa. Menachem Begin foringi Irgun, núverandi forsætisráðherra Ísraelsríkis, hafði eftirfarandi að segja um atburðinn: "Deir Yssin atburðurinn var ekki aðeins réttlætanlegur. Það myndi ekki vera neitt ísraelskt ríki án þess sem skeði í Deir Yassin".(M.Begin í "The Revolt, Story of Irgun" New York 1951)

Yfir 1,5 milljón Palestínuaraba eru flóttamenn í dag. Þeir sem enn búa í Ísraelsríki þurfa að þola grófa kynþáttakúgun.

Um 15oo drepnir í Eþíópíu frá síðustu jólum.

Fasíska herforingjastjórnin í Eþíópíu hefur drepið a.m.k. 15oo andstæðinga sína og handtekið meira en 1o þús. manns á tímabilinu frá jólum til páska, samkvæmt upplýsingum frá erlendum sendiráðsstarfsmönnum í Adis Abeba. Opinverar tölur herforingjastjórnarinnar eru: 477 drepnir og 3ooo handteknir.

Þessi morð eru liður í áætlunum fasistanna að útrýma allri andstöðu gegn sér. Er spjótunum fyrst og fremst beint gegn meðlimum EPRP (Hins byltingasinnaða flokks eþíópískrar alþýðu). Lík hinna myrtu eru lögð á göturnar öðrum til aðvörunar.

Í byrjun apríl stóð stjórnin að fjöldamorðum í bænum Assela. Herforingjstjórnin hefur bannað að syrgja fórnarlömb hryðjuverksins opinberlega.

Enn einn áfangi í frelsisstríðinu í Eritreu.

EPLF frelsishreyfingin í Erítreu hefur náð á sitt vald bænum Adi Caieh. Hann liggur við þjóðveginn milli Addis Abeba og erítreísku höfuðborgarinnar Asmara, og er því hernaðarlega mjög mikilvægur. Nú eru aðeins fjórar erítreískar borgir undir eþíópískri stjórn þ.e. Asmara, Massawa, Assab og Barentu.

# 2. grein Afleiðingar verðbólgu

## Greinaflokkur um efnahagsmál

Helstu afleiðingar verðbólgunnar, auk þeirra sem um getur í síðustu grein eru:

1. Vegna þess hve verðtrygging launa er seinvirk og ófullkomin lækkar kaupgetan stöðugt. Vinnandi fólk nýtir því nánast allt sitt fé til brýnustu nauðsynja. Sé eitthvað afgangs af launum þess, reynir það að kaupa sér nothæfa hluti, svo sem húsgögn, heimilistæki, bifreiðar og íbúðir, í stað þess að leggja fyrir. Að öðrum kosti mundu laun fólks eyðast upp í verðbólgunni. En við þetta aukast bæði fjárfestingar vinnandi fólks og um leið skuldir þess.
2. Auðstéttin festir sem mest fé í framleiðslutækjum og fasteignum, þannig að fjármagn í umferð verður "of lítið". Slíkar fjárfestingar borga sig fyrir eignamenn, því verðgildi slíkra stóreigna margfaldast í verðbólgubálinu. Þetta er einnig hluti þess tilgangs sem að baki verðbólgunni býr.
3. Ríkisvald auðstéttarinnar verður að bregðast við þessum "peningaskorti". Það gerist á tvo vegu, - annars vegar með aukinni skattpíningu og minnkandi þjónustu og opinberum framkvæmdum, - hins vegar með aukinni peningaútgáfu.

LAUNAHÆKKANIR

Launahækkanir geta ekki haft varanleg áhrif á vöruverð. Þær geta í hæsta lagi valdið tímabundnum sveiflum á vöruverði, meðan markaður og framleiðsla eru að laga sig að breyttum kaupmætti vinnandi fólks. Hins vegar hafa raunverulegar kauphækkanir þau áhrif að minnka gróða atvinnurekenda. Og gegn því stendur auðstéttin að sjálfsögðu.

En nú hefur verðbólgan verið óslitin á Íslandi um langan aldur. Hér er því ekki um að ræða tímabundna röskun á verðlagi, heldur samfelldar árásir á lífskjör vinnandi fólks. Eina aflið sem getur staðið gegn verðbólgu er vinnandi alþýða, en vörn hennar hefur tíðast verið bitlaus og slöpp vegna svikaranna í forystu verkalýðssamtakanna.

Þegar verkafólk krefst hærri launa, er það til að fá bætur fyrir það sem verðbólgan hefur étið upp. Fáist einhver hækkun er hún umsvifalaust dregin til baka með verðhækkunum, fyrst og fremst vegna þess að verkalýðsforystan hefur löngu gefið þegjandi samþykki sitt til slíkra kjaraskerðinga. Það sýnir best í hverra þágu slík forysta starfar.

ÓÐAVERÐBÓLGA

Auðstéttin vill halda verðbólgunni innan vissra marka. Of mikil verðbólga skapar efnahagslegt öngþveiti, sem jafnvel auðstéttin sjálf á erfitt með að ráða við. Verðbólgan á Íslandi er óðaverðbólga sem ógnar efnahagskerfinu alvarlega Þess vegna tala auðherrar óvíða meir um"verðbólguvarnir" en hér á landi, og þess vegna hefur auðstéttin hag af að hægja aðeins á henni. Það er líka í samræmi við óskir erlendra auðhringja, sem fjárfesta hérlendis með lánveitingum og/eða beinni þátttöku í atvinnurekstri.

En úrræði auðvaldsins til "varnar" gegn verðbólgu eru í ósættanlegri andstöðu við hagsmuni verkafólks. Auðherrarnir vilja engu fórna. Þeirra ráð eru stórfellt atvinnuleysi og lækkun launa. Nýjustu efnahagsráðstafanir ríkisvaldsins eru ein slík aðferð. Þær eru einfaldlega lækkun launa, þ.e. aukið forskot hækkaðs vöruverðs fram yfir launahækkanir.

TIL BARÁTTU GEGN VERÐBÓLGUNNI

Verkafólk á ekki margra kosta völ í baráttunni gegn verðbólgunni, meðan það felur auðstéttinni og útsendurum hennar forráð yfir samtökum sínum. Þess vegna er ein megin forsenda þess að draga úr verðbólgunni sú að losna við svikarana og stéttasamvinnuforkólfana úr röðum verkalýðs. Þá fyrst má vænta þess að fullkomnari verðtrygging launa verði að veruleika og verðbólgan geti þar með minnkað. En verðbólgunni verður ekki útrýmt meðan auðstéttin ræður ríkjum á Íslandi. Til að berjast gegn verðbólgunni til frambúðar verður því að berjast fyrir sósíalisma, fyrir eign og forræði verkalýðs og vinnandi alþýðu yfir atvinnutækjum og framleiðslu. Í sósíalískum þjóðfélögum er engin verðbólga til. Þar eru aðeins samfelldar launahækkanir, bæði í formi lækkaðs vöruverðs og beinna launahækkana. Góð dæmi um þetta eru einmitt Kína og Albanía.

Í næstu grein verður fjallað um kökukenninguna og vísitölu.

# Spurningar til Þjóðviljans

Siðfræði Alþýðubandalagsins er eins og kameljónið. Hún skiptir litum og breytir um yfirbragð eftir því við hvern er átt og um hvern er rætt. Margir eru leiðararnir um spillinguna í þjóðfélaginu og mikið er fjargviðrast um árásir á Þjóðviljann vegna fjármála hans.

Af því Þjóðviljinn er sómakær er hann beðinn um að svara eftirfarandi spurningum:

1. Hvernig stendur á því að Alfreð Gíslason læknir og félagi í Frímúrarareglunni er félagi í AB?
2. Haukur Björnsson heildsali á fé í Finansbanken. Hvað hyggst AB gera í því sambandi?
3. Var Garðar Sigurðsson, alþm. viðriðinn svonefnt Herjólsmál ?
4. Hver voru tengsl heildsölunnar Everest Trading Company sem Ægir Ólafsson rak og Þjóðviljans? Hvaða fyrirtæki hafa greitt framlög til Þjóðviljans?
5. Er Rolf Jóhansen heildsali styrktarmaður Þjóðviljans? Hverjir eru fastir styrktarmenn?
6. Hvers vegna eru seld klámblöð í bókaverslun Máls og menningar?

Verklýðsblaðið bíður spennt eftir svörum.

# Afstaða EIK (m-l) til:

# Erlends stuðnings við ísl. stjórnmálastarfsemi

Efnislegur stuðningur erlendis frá til stjórnmálastarfsemi á Íslandi hefur verið talsvert til umræðu að undanförnu, fyrst og fremst vegna ákvörðunar krataflokka í Skandinavíu að gefa Alþýðuflokknum pappír til að halda úti Alþýðublaðinu. M.a. þetta hefur orðið til þess að á þingi hefur komið fram frumvarp til laga um bann við stuðning erlendra aðila við stjórnmálastarfsemi á Íslandi og "kratagullið" hefur verið gagnrýnt úr öllum áttum, en hörðust gagnrýni hefur komið frá Alþýðubandalaginu og Þjóðviljanum.

Grunntónn málflutnings síðastnefndu aðilanna er sá hinn sami og í frumvarpinu, að banna beri almennt efnislegan stuðning erlendis frá.

Afstaða EIK(m-l) til málsins er í stórum dráttum þessi:

1. Ástæða þess að skandinavískir kratar, og þá fyrst og fremst norskir, sjá ástæðu til þess að fjárfesta í fjölmiðlum á Íslandi, verður m.a. að skoðast í ljósi hraðvaxandi ásælni norskra auðhringa gagnvart Íslandi. Fyrirsjáanlegt er að með vaxandi olíugróða norska auðvaldsins, vex að sama skapi þörfin fyrir fjárfestingar gróðans erlendis og þá er Ísland ofarlega á blaði - vegna ódýrrar orku og ódýrs vinnuafls. Norski hringurinn Elkem-Spigerverket stendur að stóriðjubyggingu í Hvalfirði og Norsk Hydro leitar eftir svæði/svæðum fyrir álver á Norðurlandi. Innlendir leppar norska auðvaldsins, þar á meðal íslenskir kratar, hamra gjarnan á því að "norskt auðmagn sé mun betra og velkomnara" en t.d. bandarískt, en EIK(m-l) berjast gegn öllum innrásum erlendra auðhringa í íslenskt efnahagslíf og munu beita sér fyrir afhjúpunum á áformum norrænna auðfélaga um stóriðjubyggingar hér.

2. Afstaða Alþýðubandalagsins/Þjóðviljans og annarra sem um málið fjalla, byggist ekki á fyrrgreindum rökum. Afstaða AB/Þjóðviljans er hættuleg og við henni ber að vara. Hún gefur borgarastéttinni mjög undir fótinn með að ganga á lagið og setja löggjöf sem bannar almennt flutning efnislegs stuðnings, t.d. fjár, á milli landa, en slík löggjöf myndi hiklaust verða notuð gegn verkalýðnum og alþýðu. Til dæmis myndi borgarastéttin nota slíka löggjöf til að koma í veg fyrir fjárstuðning frá erlendum stéttarbræðrum í verkföllum á Íslandi og í kjölfar gæti komið löggjöf sem bannaði yfirfærslu á stuðningsframlögum frá Íslandi til erlends verkalýðs og alþýðu sem á í átökum við auðvaldið og erlendra frelsishreyfinga, sem íslensk alþýða vildi styðja með fjárframlögum. Borgarastéttir allra auðvaldslanda, sem enn hafa ekki sett slík lög, munu fegins hendi grípa tækifæri til þess, sérstaklega ef "vinstri" flokkar, falssósíalistar, gefa því grænt ljós.

Niðurstaða. Af framangreindu má ljóst vera, að þegar talað er um efnisleg tengsl stjórnmálastarfsemi milli landa, þá verður að móta til þess afstöðu í samræmi við stéttarhagsmuni verkalýðsins eingöngu. Þar af leiðir að við berjumst gegn stuðningi skandinavískra auðmanna við íslenska fjölmiðla og stjórnmálastarfsemi, þar sem það þjónar gróðahagsmunum erlendra auðhringa og innlends auðvalds. Hins vegar verjum við rétt verkalýðs og alþýðu til þess að þiggja stuðning frá erlendum stéttarbræðrum, þegar þess þarf með og um það er beðið. Einnig verjum við rétt okkar til að starfa sjálf samkvæmt alþjóðahyggju verkalýðsins, t.d. með því að senda erlendu verkafólki stuðning, þegar þörf krefur, og styðja frelsisbaráttu hvar sem er í heiminum - sbr. söfnun EIK(m-l) fyrir Pan Africanist Congress, PAC, í Azaníu (Suður-Afríku). Afstaða Alþýðubandalagsins/Þjóðviljans til málsins, sem fellur nákvæmlega heim og saman við afstöðu Morgunblaðsins og Tímans (eðlilega!) er andstæð hagsmunum verkalýðs og alþýðu og gegn henni ber að berjast.

## Samtíningur

VILMUNDUR GYLFASON



Ný stjarna hefur tekið upp á því að skína á himni íslenskra stjórnmála - sonur Gylfa Þ hefur skriðið úr egginu og slær um sig. En þótt bjarminn sem af honum stafar sé falskur og tilbúinn með nútíma fjölmiðlatækni, þá bendir margt til þess að þó nokkur fjöldi hafi látið blekkjast og ætli að veðja á hann í komandi kosningum. Höfuðmál Vilmundar er sagt einhverskonar hreinsun á spillingunni sem þjóðin horfir framan í. En í rauninni er Vilmundur himnasending fyrir íslenska borgarastétt, sem er mikið í mun að viðhalda trú alþýðunnar á borgaralega lýðræðinu. Dugleysið og spillingin hefur grafið undan þessu trausti alþýðunnar - en nú kemur Vilmundur til skjalanna með sína "hreinsunaráætlun", sérhannaða til þess að endurvekja traustið á gegnum-rotnu "kerfinu".

ÓVÆNT FRAMHALD

> Sem fyrr segir er Didi Nasri hingað kominn fyrir tilstilli sérstakra samtaka sem nefnast 31. mars samtökin. Þau sameina ýmsa þá sem hafa áhuga á að fá sannanir fyrir hinum gífurlegu möguleikum mannsins sem með einbeitingu nær fullum tökum á orku sinni. Það kom að vísu fram á blaðamannafundinum í gær, að nokkur ágreiningur er meðal samtakamanna um túlkun á lækningum Nasris. Hópur undir forystu Ara Trausta Kvaran, sem tengdur er Sálar... ginu, vill setja afrek Nasris inn í þró... ans. En hinir róttækustu í samtökun... sem hverri annarri hughyggju (ideal... ð rit Maó Tes-tungs hafi orðið Nasri ... leiðarljósi eins og t.d. nálastungulæknunum kínversku. Þessir aðilar eru flestir úr EIK-ml. Einn þeirra, Ævar R. Guðmundsson, viðurkenndi reyndar, að einnig meðal marx-leninista væri ágreiningur um túlkun á þessum „kraftaverkum". Meirihluti stjórnar EIK teldi, að athafnir Didi Nasri kæmu ekki fyllilega heim við þekk-
>
> ÞJÓÐVILJINN
>
> Laugardagur 1. apríl 1978

Didi Nasri, huglæknirinn frægi sem Þjóðviljinn gat um í sambandi við EIK(m-l) 1.apríl s.l. gerði mörg kraftaverk meðan á Íslandsdvölinni stóð. M.a. nam hann illkynjuð æxli úr höfðum flestra starfsmanna Þjóðviljans



Didi Nasri sést hér draga illkynjað æli úr hálsi blaðamanns Þjóðviljans.Hætti hann störfum samstundis við blaðið. (Mynd: Verkalýðsblaðið)

(sjá mynd). Heppnaðist lækning Nasris vel og eru flestir sjúklinga hans nú gengnir í EIK(m-l). Ekki tókst Nasri að fá leyfi þingmanna Alþýðubandalagsins til að glugga í heilabú þeirra.

Héðan fór Didi Nasri beint til Sovétríkjanna, en þar er honum ætlað að leita æxla í ráðamönnum austur þar. Verði einhverjir eftir á Þjóðviljanum að ári er í ráði að fá hingað siðameistara páfans í Róm til að kenna þeim kærleika og góða siði.

(Frétt frá 31.mars-hreyf.)

NERÓ KEISARI

Í litlu herbergi við Grettisgötu safnaðist svokallaður "Kommúnistaflokkur Íslands" saman um páskana og hélt þing. Þar voru margar sérkennilegar ákvarðanir teknar en að líkindum er ákvörðun flokksins um framboð í nokkrum kjördæmum sú einkennilegasta. Af hverju? Vegna þess að flokkurinn hefur beðið hvert skipbrotið á fætur öðru og rúmlega helmingur félaga hans hafa yfirgefið hann sökum hinnar grófu hentistefnu sem veður uppi í starfi hans. Margir þeirra hafa lagt fram ítarlega gagnrýni sem sýnir fram á hversu djúpt þessi "framvörður verkalýðsins" er sokkinn í fenið - en í stað þess að ræða þessa gagnrýni og taka vitlega afstöðu til hennar þá fer flokksflakið í framboð!

Kristján Guðlaugsson hagar sér líkt og Neró keisari forðum - situr og spilar á fiðlu þegar Róm brennur.

VERKALÝÐS BLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK (m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 4000
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Posthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212



# II. landsþing „KFÍ/ml"

# Hentistefnan vinnur á

EIK(m-l) hafa stimplað "Kommúnistaflokk Íslands/Marxista-Lenínista" -"KFÍ/ML" - sem endurskoðunarsinnaðan hentistefnuflokk og krafið hann um uppgjör við langtíma ranga stefnu og starfshætti, áður en til hugsanlegrar sameiningar gæti komið. EIK( m-l ) hafa afhjúpað og barist gegn röngum stefnuatriðum "KFÍ/ML" - en lagt sameiningargrundvöll fyrir "flokkinn" sem hann neitar að svara.

Fyrir skömmu hélt "KFÍ/ML" -hópurinn 2.landsþing sitt og gaf út ýmis plögg að því loknu. Í fjölmörgum almennum atriðum eru plögg þessi sæmileg. Marx-lenínísk málamyndaafstaða í þeim er samhljóða afstöðu EIK-(m-l). Slíkt væri jákvætt ef um raunverulegt uppgjör væri að ræða við alranga og afturhaldssinnaða stefnu í öllum meginbaráttumálum hópsins. En almenn atriði í ályktun þingsins segja næsta lítið um raunverulega stefnu hópsins, sem staðreyndir um sífelldan klofning í"flokknum" og vaxandi einangrun hans segja meira um en mörg orð. EIK(m-l) hafa eytt verulegu rúmi hér í blaðinu í gagnrýni á hóp þennan. Hér á eftir fara nokkrar athugasemdir við ályktanir þings "KFÍ/ML".

UM FORSÖGUNA.

Þar segir að undanfari "flokksins" , KSML, hafi verið marx-lenínísk samtök frá upphafi en að samtökin hafi rekið "vinstri" hentistefnu í flestum baráttumálum. Hvernig unnt er að kallast marx-lenínísk en hafa ranga stefnu í flestum baráttumálum er nokkuð sem leiðtogar "KFÍ"-hópsins einir geta skýrt! Það eru sannanlega undarleg tengsl stefnu og starfs þar á bæ. Á sínum tíma hafnaði KSML útfærslu fiskveiðilögsögunnar af því að samtökin afneituðu sjálfsákvörðunarrétti þjóða, sem er grundvallaratriði marx-lenínismans, til dæmis.

Þá er sagt að EIK(m-l) "tákni sundrungu marx-lenínísku hreyfingarinnar og vilji ekki samstarf við "KFÍ/ML". EIK(m-l) hafa lýst því margoft yfir að þau vilji bæði samvinnu og mögulega sameiningu við "KFÍ/ML" svari "flokkurinn" jákvætt sameiningargrundvellinum frá því í sept. 1976.

Um Grænland: EIK(m-l) eru sammála hópnum um fullan stuðning við baráttu Grænlendinga fyrir sjálfstæði.

Um starfsaðferðir: "KFÍ"-hópurinn vill taka þátt í fjöldahreyfingum, en segir ekkert um baráttu gegn rangri stefnu þeirra sem þar eru eða gegn hentistefnu og endurskoðunarstefnu í forystu þeirra. Raunveruleikinn sýnir að hópurinn lætur stjórnast af þýlyndi við falssósíalistana í þeim. Félagar hópsins tóku þátt í að fella tillögu á landsfundi Samtaka herstöðvaandstæðinga um að efla allsherjar umræðu um risaveldin innan SHA!

Um heimsvaldastefnu: Athygli vekur að hópurinn gerir minna úr baráttunni gegn Sovétríkjunum en áður. Sagt er að mikilvægasta verkefnið sé úrsögn úr NATO og brottför hersins, en efla beri "árvekni og baráttu gegn Sovét". Ekki er eina tryggingin fyrir sjálfræði þjóðarinnar - stefna alþýðuvopnunar og alþýðustríð - nefnd einu orði, en talað um að Ísland eigi að skipa sér í raðir "óháðra ríkja". Í starfi fyrir 1.maí hefur "KFÍ"-hópurinn sleppt kjörorðum gegn báðum risaveldunum og þjóðarmorðum Sovét í Afríku, til að ná samstarfi við trotskísta!

Um verkalýðsmál: Þar segir að sameina verði verkalýðshreyfinguna; um ASÍ-forystuna er sagt að hún sé boðberi "miðstýringar", "úrtölu- og undansláttarstefnu" og rætt um erindreka auðstéttarinnar (hverja??) Hópurinn leggur nú greinilega minni áherslu á baráttu gegn stéttasamvinnuforingjum í verkalýðshreyfingunni til þess að afla sér vinsælda og viðurkenningar hjá foringjunum sem "ábyrgt stjórnmálaafl".

Um jafnréttismál: Þar segir að Rauðsokkahreyfingin sé "eina framsækna kvennahreyfingin" á Íslandi. Þetta er sagt þrátt fyrir ríkjandi borgaralega stefnu í Rsh., troskíska og endurskoðunarsinnaða forystu hennar og þögn um heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Hvað kaupir hópurinn með þessu? - Svolítið fylgi og svolitlar vinsældir. Um 8.marshreyfinguna er ekki sagt orð, svo hún hlýtur þá að skoðast afturhaldssinnuð!

Um stéttir: Fram kemur beinhörð fölsun hópsins á marx-lenínismanum. Skrifstofu- og verslunarfólk, fólk í ýmsum þjónustugreinum er "nánir bandamenn verkalýðs sem hvarfla á milli afstöðu verkalýðs og auðstéttar" ! Samkvæmt marxismanum eru fyrrnefndir hópar hiklaust hlutar verkalýðsstéttarinnar.

Um starf í Háskólanum: Ekki er nefnt hver sé höfuðóvinur námsfólks, þ.e. ríkisvald auðstéttarinnar, enda gengur ekki hnífurinn á milli hópsins, Fylkingarinnar og Alþýðubandalagsins í HÍ í "vinstri-mýrinni" þar, m.a. um afstöðu til ríkisvaldsins. (Ríkisvaldið er aðeins óvinur námsmanna þegar Alþýðubandalagið er í stjórnarandstöðu!!)

Niðurstaða: Framangreind atriði úr landsþingsplöggunum sýna ljóslega að endurskoðunarstefnan í KFÍ/ML" vinnur á.





# HVERS VEGNA STYÐUR ÞÚ SAMFYLKINGU 1.MAÍ?

Petra Þórlindsdóttir verkakona : Mér finnst Samfylking 1. maí eiga fullan rétt á sér og ég styð hana fyrst og fremst vegna þess, að hún tekur upp og fylgir eftir höfuðkjörorðum 8. mars-hreyfingarinnar.

Samfylking 1. maí

Pétur Jóhann Guðlaugsson, verslunarmaður: Samstaða alþýðu er nauðsynleg í því þjóðfélagsástandi sem ríkir nú og það er ekki nóg að gagnrýna með sjálfum sér, heldur er virkt pólitískt starf nauðsynlegt. Samfylking 1. maí byggir á réttri stefnu og því er rétt að starfa með henni nú. Ég hvet alla sem sammála eru um að efla baráttustefnu í verkalýðshreyfingunni, að koma til starfa í Samfylkingu 1. maí!

# Skemmdarverk á Október búðinni

Fyrir skömmu voru framin skemmdarverk á Október bókabúðinni að Óðinsgötu 30 í Reykjavík.

Rúða í glugga búðarinnar var brotin með því að hent var í hana vænum grjóthnullungum. Hér var ekki um venjuleg strákapör að ræða, því að á malbikuðum götum Reykjavíkur er ekki svo mikið um væna grjóthnullunga, og eins hitt, að verkið var unnið í skjóli nætur. Verkalýðsblaðið er ekki í vafa um að hér er um pólitískt skemmdarverk að ræða, framið af andstæðingum kommúnista og baráttusinna, sem sjá sig knúna til að taka upp þess háttar aðferðir þegar baráttuhreyfingin er í miklum vexti og sókn.

Við kommúnistar vitum að sá tími kemur, að stéttaróvinurinn beitir baráttuliða líkamlegu ofbeldi og vinnur skemmdarverk á eigum samtaka verkalýðs og vinnandi alþýðu. Þetta hefur reynslan sýnt og við höfum kynni af þessu frá systursamtökum EIK(ml) í nálægum og fjarlægum löndum. EIK(m-l)og Verkalýðsblaðið eiga aðeins eitt svar við slíkum árásum: - Að efla baráttustefnuna, fylkja liði til baráttu gegn stéttasamvinnu og hentistefnu og ekki síst núna að styrkja fjárhagslega og pólitískt fyrirtæki og stofnanir kommúnista, þannig að starfið verði mikið og beri mikinn árangur, á meðan kommúnistar fá að starfa "löglega".

Þá er það mikilvægt, að allir baráttusinnar vinni að því að afhjúpa þá, sem beita fasískum aðferðum í örvæntingarfullri tilraun til að halda klíkuhópum sínum á lífi.

- Eflum Oktober-bókabúðirnar!

- Eflum marx-leniníska hreyfingu!



Október-bókabúðin, Óðinsgötu 30 (Mynd: Vbl.)

# Albert Guðmundsson, auðherra

# Vill banna verkföll með lögum!

Albert Guðmundsson, opinskáasti talsmaður auðvaldsins á Alþingi, hefur lagt fram þingsályktunartillögu um að sett verði lög sem banni verkföll. Með slíkum lögum hyggst auðvaldið koma í veg fyrir aðgerðir verkafólks til að mótmæla kauplækkunaraðgerðum ríkisvaldsins frá því í janúar.

En þessi tillaga er ekki aðeins sett fram með stundarhagsmuni íslensks auðvalds í huga, - hér er á ferðinni skipulagt athæfi auðvaldsins í sífellt harðnandi stéttabaráttu, skref í átt til stórskertra lýðréttinda, skref í átt til herts alræðis auðvaldsins. Slíkar tilhneigingar hafa víða komið fram í öðrum löndum í þeirri harðnandi stéttabaráttu sem kreppa auðvaldsins leiðir af sér, og sem andsvar við því vaxandi fylgi sem baráttustefna nýtur meðal verkafólks. Nægir þar að benda á lönd eins og Þýskaland, Danmörku, Noreg og Svíþjóð, en í öllum þessum löndum og mörgum öðrum ríkjum auðvaldsheimsins hefur her og lögreglu verið beitt gegn verkalýð og annarri alþýðu í baráttu s.l. 2 - 3 ár.



Albert Guðmundsson, málsvari fasismans á Alþingi.

Alls staðar þar sem auðvaldið eða hlutar þess hafa gripið til slíkra aðgerða, hafa þær verið nefndar sínu rétta nafni - fasismi. Og fasismi er ein hörmulegasta stjórnarstefna sem yfir lönd getur dunið. Nægir að minna á þau spjöll sem fasisminn í Þýskalandi, Ítalíu, Japan og víðar olli í annarri heimsstyrjöldinni, - og þær hörmungar sem fasismi sósíal-heimsvaldasinna í Kreml hefur kallað yfir þjóðir A-Evrópu.

Fasismi verður í grundvallaratriðum ekki skilinn frá auðhyggju. Hann er opinskáasta, hrottalegasta og blóðugasta mynd auðvaldsins. Því er það ekkert undarlegt að tillögur um fasískar aðgerðir gegn verkalýð skuli koma frá þeim þingmanni sem þekktur er fyrir einna skeleggsta vörn fyrir auðvaldið og fáheyrðasta fyrirlitningu á alþýðufólki. Þar er um leið heldur ekkert undarlegt að skoðanir þessa auðherra skuli fara saman við boðskap hins nýstofnaða "Stjórnmálaflokks" eins og flís í rass. Það kæmi engum á óvart þótt rödd fasismans ætti eftir að hljóma í æ ríkara mæli úr þeirri átt næstu mánuði og misseri.

Andfasisti.